# Acta Yfirréttarins á Íslandi,

fyrir árin 1749=1755.

LANDSBÓKASAFN



Leirárgørdum vid Leirá, 1804.
Prentud á kostnad Sekretéra B. Stephensens,
af Factóri og Bókþryckjara Schagfjord.



Annó 1749, þann 19da Júlii, var Yfirrétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns J. C. Pingels, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti í Yfirrettinum Sýslumadur B. Haldórsson, sem sækjandi, vegna þess íslendska Høndlunar-Kompagnies; en Løgmadr S. Sølvason og Sýslumadur S. Magnússon, sem verjendur. Sýslumadur B. Haldórsson framlagdi Yfirrettar stefnu af 17da Okt. 1748, hvarí hann klagar yfir Sýslumanni S. Magnússyni, ad hann hafi nidursett járn í Hofsós kaupstad, árid 1746, til 6 fiska fiórdúnginn, án undangángandi kløgunar. Løgmadur S. Sølvason stefnist til ad forsvara sinn dóm, ad hann Sýslumannsins ástædur stadfest hafi. Stefnan, af vidkomendum uppáskrifud, var lesin og mørkud lit. A. Því næst framlagdi

lagdi Sýslumadur B. Halldórsson Herads- og Log-þíngis-dóma í þessu máli, sem vóru lesnir og markad-ir lit. B. Hann uppástendur, ad sínar ástædur, fyrir Logþíngis-retti framfærdar, verdi adgættar, og heldur sig til síns innleggs fyrir sama rett framlagt. Sýslu-madr S. Magnússon framlagdi innlegg af 18da hú-jus, hvar í hann uppástendur, ad sinn Herads-dómur, se bædi sannur og rettur og landinu naudsynlegur, þar lif-fólks vidliggi, fái þad ecki brúkanlegt járn, og beid-ist skadabótar af sínum mótpartum, m. fl. Innleggid lesid og markad lit. C. Logmadur S. Sölvason fram-lagdi innlegg af Gjærdags dató, hvar í hann færir rok til, ad sinn Logþíngis-dómur se rettur og naud-synlegur, svo framt innbúar landsins eigi ad haldast vid lífid, med fleirum roksemdum, sem innleggid fram-ar synir, lesid og markad lit. D. Sýslumadur B. Halldórsson uppástendur, ad þótt járnid hafi reynst slæmt og óbrúkandi, hafi þad verid sínum Prinsipaler óvitandi, og þeim ómogulegt vid ad gjora. Máls-partarnir qvádust eckert meira hafa fram ad færa, hvors vegna svo látandi dómur var af Yfirrettinum afsagdur:

Þad er med vitnum sannad, og af Kaup-manni Owesen medként, fyrir Héradsréttin-um, ad járn þad, sem til Hofsóss kaupstadar hefir innflutt verid árid 1746, reyndist ad mestu gagnlitid og lítt brúkandi; en fólk þess Distriktis þó ecki án lífs-fárs kunnad járnsins án vera, heldur mátt af því innkaupa þeim

mun-

mun meira, sem þad var óduglegra; hvors vegna Sýslumadur S. Magnússon hefir í tilliti til þessa, og Rentukammersins skipunar um óduglegar Kaupmanna vörur, nidursett þess verd, þegar þad reyndist svo óbrúkanlegt og gagnlítid, og ecki kunnad þyggja Kaupmanns Owesens gjørt tilbod, allt járnid út aptur ad flytja. Sýslumadur B. Haldórsson, sem sækjandi málsins, hefir þar á móti hvørki fyrir Løgþingis- ne þessum Yfir-rétti, framfært nockud løgmætt þessari Sýslumanns S. Magnússonar adgjørd til hneckingar; því dæmist rétt:

Sýslumanns S. **Magnússonar** adgjørd, um verd þess óduglega járns, er innfluttist í **Hofsóss** kaupstad árid 1746, skal standa í fullu gyldi, og stadfestist Løgþingis dómur Løgmanns S. **Sølvasonar** í þessu máli, og skal þad íslendska Hondlunar-Kompagnie, fyrir ónaudsynlega málsins sókn til þessa Yfirréttar, borga til Løgmanns S. **Sølvasonar** 10 rdli. kr., og til Sýslumanns S. **Magnússonar** 7 rdli. kr., sem lukt skal vera innan Augústi mánadar útgángs, undir Exekution og Ind-

førsel í þess íslendska Höndlunar-Kompagnies gótsi í Hofsósi kaupstad.
Actum ut supra.

J. C. Píngel.

| | |
|---|---|
| M. Gíslason. | G. Sigurdsson. |
| P. Magnússon. | B. Sigurdsson. |
| A. Jónsson. | P. Jónsson. |
| S. Stephánsson. | S. Vigfússon. |
| E. Magnússon. | B. Nikolásson. |
| Þ. Þorsteinsson. | S. Helgason. |

## NUM. II.

Sama eptirmiddag mætti í Yfirrettinum Løgþíngis-skrifarinn S. Sigurdsson, og framlagdi Yfirrettar stefnu af 21ta Nóvembr. nærstlidna, útgefna eptir bón Klausturhaldarans J. Thorlacii, móti Sýslumanni B. Nikolássyni, sem þar í er stefndur, fyrir sína forsómun í því, ad eptirlifa Amtmannsins skipun, áhrærandi Kirkjubæar klausturs álags úttekníng hjá vidkomendum, med fleirn þar ad lútandi, er stefnan uppáteiknud af verjanda þann 8da Maí a. h. med ser ber, lesin og mørkud lit. A. Einnig framlagdi Løgþíngisskrifarinn Amtmannsins skipun, af 14da húius, til sín, ad gánga í rett, sem fullmektugur; lesin og mørkud lit. B. Þridja Skjal framlagdi hann, sem er Amtmannsins skipun,

skipun, eptir bón Klausturhaldara Thorlacii til Sýslumanns B. Nikolássonar, af 22rum Maí 1748, ad hann skuli gjøra útlag af sterfbúi fyrrum Klausturhaldarans Eyvindar, til Klausturfins og þess Inventarii álags, sem sama skjal framar med ser ber, lesid og markad lit. C. Fjórda Skjal framlagdi hann, sem er bón Klausturhaldara Thorlacii til Sýslumanns B. Nikolássonar, ad hann útlagid gjøri, eptir áminnstri Amtmannsins skipun, dat. 11ta Júní 1748, og samdægris uppáskrifud af Sýslumanni B. Nikolássyni, lesid og markad lit. D. Hid fimta skjal framlagdi hann, daterad 19da Júní 1748, sem er medkenníng Sýslumanns B. Nikolássonar, ad hann hafi Extrakt Klaustur-útlektarinnar, og afsøkun ad gjøra útlagid af sterfbúi Eyvindar, lesid og markad lit. E. Sýslumadur B. Nikolásson framlagdi innlegg af 14da húsus, hvar med hann vill ánægjanlega sýna og sanna, hvørsu ógrundud og óbilleg se Thorlacii málssókn; innlegginu fylgja Bilager Num. 10; lesid og markad lit. F. Þar ed dagur var ad qvøldi kominn, var frá rettinum gengid.

## Num. III.

Þann 21ta Júlí settist Yfirretturinn á ný, framlagdi þá Sýslumadur B. Nikolásson innlegg af dags dató, hvar í hann afsakar sig frá Aktóris sakargiptum, um forsómun ad gjøra Exekútión, lesid og markad lit. G.

Annad sama innihalds, af 15da húšus, framlagdi hann, sem var lesid og markad lit. H. Ad sidusta uppástendur hann munnlega, ad hann se ólöglega stefndur i þessari søk, og mótmælir ad lída dóm. Løgþingisskrifarinn framlagdi innlegg af dags dató, hvari hann demonstrerar, ad sterfbú Eyvindar hafi ecki átt til erfingjanna ad distraherast, fyrr enn Hans Majestæt hefdi forlofs verid útlagt fyrir Klaustrid og þess álag, m. v., sem inleggid med ser ber, lesid og markad lit. J. Partarnir adspurdir: hvert meira hefdu ad framfæra? svarudu nei! var því eptirfylgjandi dómur i málinu affagdur:

Klausturhaldarinn J. Thorlacius hefir í engu sannad sínar, Sýslumanni B Nikolássyni géfnar, sakargiftir um slíka Réttarneitun og løgstrídandi Procedeurs, er fyrir þennann rétt ætti ad innstefnast; hvors vegna þetta mál, sem óløglega híngad innstefnt, frávísast. En J. Thorlacius, fyrir óløglega innstefníngu, samt ósañadar ákjærur, skal, sem temere litigans, borga til Sýslumanns B. Nikolássonar í Reparation, kost og tæríngu 10rdli. krón., sem luktir skulu vera innan nærstkomandi Micha-

chaelis messir, undir adför og Exekution. Actum ut supra.

J. C. Pingel.

M. Gíslason. S. Sölvason.
B. Haldórsson. S. Magnússon.
G. Sigurdsson. P. Magnússon.
B. Sigurdsson. P. Jónsson.
S. Vigfússon. P. Þorsteinsson.
A. Jónsson. S. Stephánsson.



Annó 1750, þann 16da Júlii, var Yfirrétturinn settur, undir Præsidio Amtmanns J. C. Píngels, med undirskrifudum Assessórum.

Mætti i Yfirrettinum Løgþíngisskrifarinn S. Sigurdsson, vegna Tengdafødur síns Brynjólfs Thorlacii, og framlagdi Yfirrettar stefnu af 5ta Nóvembr. 1749, med hvorri stefnist Løgmadurinn M. Gíslason, til ad forsvara sinn Løgþíngis-dóm af 19da Júli nærstlidins árs, i húsrofs málinu milli Citanten og Prestsins Páls Høgnasonar, hvørr einnig er, sem vidkom-

 

andi hingad stefndur, ásamt Sýslumanni P. Magnús-syni, sem Herads-dómara, allir til ad lída endilegann Yfirrettar dóm, sem stefnan framar sýnir, lesin og mørkud lit. A. Því nærst framlagdi Aktór Løgþíngis Aktenn i þessari søk, undir hendi og signeti Sýslumanns og nú verandi Landfógeta S. Magnússonar, sem var lesinn og markadur lit. B. Innlegg framlagdi Aktor af dags daté, hvar í hann ítrekar og útfærir þær merkilegustu ástædur í málinu, mót Dómendunum og sínum mótparti, og uppástendur, ad þeir felldu Herads- og Løgþíngis-dómar verdi aldúngis ónýttir; innleggid lesid og markad lit. C. Hjer uppá svarar Sýslumadr P. Magnússon, med innleggi af dags dató, hvar í hann demonstrerar søkina sínum dómi til styrkíngar, lesid og markad lit. D. Prestinn P. Høgnason framlagdi innlegg af dags dató, í hvørju hann framtelur þær markverdustu ástædur sínu máli til styrktar, lesid og markad lit. E. Løgmadur M. Gíslason framlagdi innlegg af dags dató, sem er forsvar fyrir hans Løgþíngis-dómi, sem og, í hvørju hann er ólølega átalinn, lesid og markad lit. F. Meira høfdu ecki partarnir ad framfæra, nema þad þeir á bádar sídur heimta skadabætur hvørr af ødrum, var því málid til dóms upptekid, er fiell þannig, sem fylgir:

## Sá af Løgmanni M. Gíslasyni afsagdi Løgþíngis dómur, í húsa-rofs og

og lausnar-réttar máli milli B. Thorlacii og Prestsins P. Hognasonar, skal standa vid fulla makt, þar nefndur B. Thorlacius hefir, sem Hérads Prosessinn sýnir, frásagt sér í fyrstu húsaña lausnar-rétt, þá honum tilbodinn var, sem og sídan ad þrem árum lidnum, þá hann fyrirbaud sonu hús ad burtrífa, ecki viljad frambjóda antakanlega borgun, hvørs vegna Prestinum P. Hognasyni var saklaust þau ad burtflytja. B. Thorlacius skal því, fyrir ógrundad Appell til þessa Yfirréttar, borga til Lögmanns M. Gíslasonar 8 rdli., til Sýslumanns P. Magnússonar 5 rdli., og Prestsins P. Hognasonar 3 rdli. króner, sem luktir skulu vera til réttra medtøkumanna innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adfør og Exekution. Actum ut supra.

J. C. Pingel.

S. Solvason. G. Sigurdsson.
A. Jónsson. B. Sigurdsson.
G. Sigurdsson. E. Olafsson.

S. Helgason. Þ. Bjarnason.
Torfi Erlendsson. Sæmundur Gissursſ.
Vigfús Sigurdsson. Stephán Björnsson.

Annó 1751, þann 19da Júlii, var Yfirretturinn settur, undir Præsidio Amtmanns J. C. Pingels, med undirskrifuduin Assessörum.

## Num. I.

Mætti i Yfirrettinum Løgsagnari Þ. Bjarnason, sem Aktór Gudmundar Bjarnasonar vegna, eptir Amtmannsins Ordre af 16da Júnii, lesin og merkud lit. A. Þar næst framlagdi hann stefnu til þessa Yfirrettar af 31ta Decembr. f. á, med hverri stefnist Sýslumadurinn í Isafjardar-sýslu E. Olafsson, ad forsvara þad, hann, eptir gjört Appell frá Þjófs-dómi yfir Gudmundi Bjarnasyni gengnum, hafi látid hann kagstrýkja og brennimerkja. Stefnan er Sýslumanninum løglega auglýst, lesin og merkud lit. B. Sýslumadur E. Olafsson mætir í rettinum, og mótmælir ad málid, sem fyrir þenna rett se óløglega innstefnt, verdi fyrirtekid, heldur ad því verdi frávísad, þar ed

þad

þad hafi ecki fyrir Løgþingisrett komid. Løgsagnari P. Bjarnason uppástendur ad málid hafi framgáng, eptir Nl. 1-6-17. Her uppá fiell svo látandi Yfirrettarins Urskurdur:

Málid kann ecki af Yfirréttinum ad fyrirtakast, þar þad hefir ecki ádur fyrir Løgþingis-rétt innstefnt verid, í Anledning af híngad í land inngéfnum konúnglegum Anordninger. Actum ut supra.

J. C. Pingel.

| | |
|---|---|
| M. Gíslason. | S. Sølvason. |
| B. Markússon. | B. Haldórsson. |
| O. Arnason. | B. Sigurdsson. |
| P. Magnússon. | J. Sigurdsson. |
| Haldór Axelsson. | Sveinn Thómasson. |
| Sigfús Jónsson. | Þórdur Gíslason. |

## Num. II.

Sama dag mætti í Yfirrettinum konstitúeradur Sýslumadur J. Sigurdsson, og framlagdi Amtmannsins Ordre, ad gánga í rett vegna Gunnars Jónssonar og Þorvardar Jónssonar, móti Sýslumanninum G. Sigurdssyni, í þeirri hier fyrir Yfirrettinn innstefndu søk, lesin og merkud lit. A. Þar nærst framlagdi hann Yfirrettar stefnu, af 21ta Decembr. f. á., med hverri Sýslumadur G. Sigurdsson stefnist til ad forsvara

þad,

þad, ad hann mót optlega gjørdum Citanternes bónum, hafi ecki viljad útgefa þeim þann Próceſs afſkrifadann, sem hann ad Draungum á Skógarſtrønd, þann 23ja Maí 1750, affagt hafi, um ſauda-þjófnad þann, er Citanterne hafa verid ſkuldadir fyrir. Stefnan er byrt þann 4da Maí nærſtlidna, leſin og mørkud lit. B. Sýſlumadur B. Haldórsſon mætir uppá Sýſlumanns G. Sigurdsſonar vegna, og uppáſtendur ad þeſsi ſøk egi hier ecki fyrir ad takaſt, heldur egi ſinn Principal ad dæmaſt fyrir ſínu retta foro; Løgþíngis-rettinum, ſvo vel fyrir þeſſa ſøk, ſem adra hans dóma og embættis-verk, en Landſins Yfirrettur ſe med konúnglegri allranádugaſtu Fundatz, tilſkipadur ad dæma yfir Løgmanna dómum, þar med ſe bædi Sýſlumanni og ødrum málspørtum mjøg óþenaslegt ad ſtefnaſt og frammfæra ſínar ſakir immediate fyrir Yfirretti, frá Hjerads-retti, edur og prima Inſtantia, þá enginn dómur er í málinn ádur genginn, og mørgum þeim ómøgulegt Yfirrettarins dóm ad appellera til Hæſta-rettar, ſem þó kynni naudſyn tilbera, ef ádur væri þad fyrir engum retti dæmt edur ranſakad; uppáſtendur þeſs vegna, ad málinu verdi øldúngis fráviſad til ſíns retta forum. Aktor Sýſlumadur J. Sigurdsſon uppáſtendur málid endilega fyrirtakiſt, eins og almenn venja verid hafi í vidlíkum ſøkum; en þótt málid kynni ad vera ránglega híngad ſtefnt, þá mætti þad virdaſt ſínum Principaler til vorkunar, vegna þerrra ſávitſku. Hier uppá fiell ſvo látandi Yfirrettarins Urſkurdur:

Mál

Mál þetta kann ecki af Yfirréttinum ad fyrirtakast, þar þad hefir ecki ádur fyrir Løgþingis-rétt innstefnt verid, í Anledning af konúnglegum allranádugustu Anordninger um landsins Yfirrétt.

Actum ut supra.

J. C. Pingel.

| | |
|---|---|
| M. Gíslason. | S. Sølvason. |
| B. Markússon. | O. Arnason. |
| B. Sigurdsson. | E. Olafsson. |
| P. Magnússon. | P. Bjarnason. |
| Haldór Axelsson. | Sveinn Thómasson. |
| Sigfús Jónsson. | Þórdur Gíslason. |

---

Annó 1752, þann 18da Júlii, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidio Løgmanns og konstitúeret Amtmanns M. Gíslasonar, med undirskrifudum Assessórum.

Mætti i Yfirrettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi konúnglega allranádugustu skipun, af 12ta Apr.

Apr. 1751, til Hra. Stiptamtmanns Rantzou, ad saka-persónanna Gudmundar Pantaleonssonar og Ingveldar Jónsdóttur blódskammar brot, skuli fyrir Landsins Yfirrett innstefnast; lesin og merkud lit. A. Þvi nærst framlagdi hann Yfirrettar stefnu í þessu blódskammar máli, sakamanninum Gudmundi vottanlega auglýsta, lesin og merkud lit. B. Enn þá framlagdi hann Prestsins Hra. Asgeirs Bjarnasonar vitnisburd, ad sakakonan Ingveldur sie á sóttarsæng dáin nærstlidinn 10da Maji, lesinn og markadur lit. C. Ad sídustu framlagdi hann Hjerads- og Løgþingis-dóma í þessu máli, lesnir og markadir lit. D. Munnlega uppástendur hann, ad sinn Hjerads dómur, sem af Løgþingis-rettinum sie stadfestur, verdi hjer einnig konfirmeradur. Sýslumadur A. Jónsson, sem settur talsmadur sakamannsins Gudmundar, eptir skipun af 17da húsus, sem var lesin og merkud lit. E, mætir í rettinum ásamt sakamanninum, og bidur, ad þad adgætist, hvert nóglega sie fyrir undangengnum rettum sannad, ad Ingveldur hafi barn átt med fødur Gudmundar, og vanti nockud á þad, voniar hann ad dómarnir linist. Løgmadur S. Sølvason svarar hjer uppá: ad Prósessarnir færi med sier fullgyldar røksemdir í málinu og skýlausa medkenníngu Gudmundar þar um, ad heyrt hafi þad fadir hans hafi barn átt med nefndri Ingveldi ádur, en þar eptir hafdi holdlegt samrædi med

heuni,

henni, hvar um hann sig til Prófessanna refererar, og uppásteudur sinn Løgþíngis dómur stadfestist. Meira høfdu ecki partarnir ad framfæra undir endilegann dóm, er fjell svo látandi:

Þad er sannad fyrir Hérads-réttinum med sakamannsins Gudmundar Pantaleons-sonar egin játun, ad hann árid 1749 hafi barn átt med Ingveldi Jónsdóttur, sem ádur fyrir 13 árum hafdi barn átt med fedur þessa sakamanns, hvad hann og fyrir Hérads-réttinum játad hefir sig vitad hafa, þegar sitt barneign skédi, veitir því og hér fyrir rétti vidgaungu, jafnvel þó hann þá einúngis 9 ára gamall verid hafi; ad þessu øllu yfirvegudu, dæmist rétt:

Gudmundur Pantaleonsson hefir med barneign med Ingveldi Jónsdóttur, er ádur honum vitanlega hafdi opinber ordid ad barneign med fødur hans, Pantaleon Jónssyni, drýgt blódskømm, og þar med forbrotid lífid, og skal med øxi hálshøggvast; en þared bædi Løgþíngis- og þessi Yfir-réttur tekur til yfirvegunar ad láta dóminum yfir sakamanninum fullnægja, fyrri enn málid er konúnglegri Hátign allraundir-

B gésn.



géfnast til vitundar géfid, svo skal Sýslumadur E. Olafsson, á þessu sumri, gjøra þar um allerunderdanigste Andragende, og senda þá í málinu, svo vel hér fyrir Rétti sem ádur gengna doma. Actum ut supra.

M. Gíslason.

B. Markússon. B. Haldórsson.
G. Sigurdsson. P. Magnússon.
E. Magnússon. B. Sigurdsson.
J. Benediktsson. S. Stephánsson.
S. Vigfússon. Þ. Þorsteinsson.
P. Jonsson. B. Jonsson.



Annó 1755, þann 12ta Júlii, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidio Løgmanns og konstitúeret Amtmanns M. Gíslasonar, med undirskrifudum Assessórum.

Num. I.

Mætti í Yfirrettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi Yfirrettar stefnu, med hvørri Løgmadur S.

Sølvason stefnist ad forsvara sinn, yfir honum þann 18da Júlí 1754, afsagda Løgþingis dóm, í hvørjum Sýslumadur E. Olafsson er dæmdur frá embættinu og i stórkostlegar peninga bætur, fyrir þann Herads dóm er hann gengid hefir yfir Gudmundi Bjarnasyni, uppá honum tildæmda þjófnadar sök, mark og húdlát, og þar eptir giørda Exekutión, sem stefnan framar synir, lesin og mørkud lit A. Sýslumadur A. Jónsson mætti vegna Gudmundar, eptir skriflegri skickun, sem var lesin og mørkud lit. B. Sýslumadur E. Olafsson framlagdi Løgþingis Prócess genginn í þessu máli þann 16da Júlí 1754, í hvørs slúttníngu Sýslumadurinn er dæmdur í 50 rdla. múlkt til Gudmundar Bjarnasonar, og felldur frá sínu Sýslumanns Embætti, sem sami Prócess og dómur framar med ser ber, lesinn og markadur lit. C. Sýslumadur E. Olafsson framlagdi innlegg af dags dató, í hvørju hann vill veikja tveggja manna vitni, vidvíkjandi Appelli Gudmundar, þad lesid og markad lit D. Løgmadur S. Sølvason mótmælir, ad þau vitni, sem Sýslumadurinn leidt hafi svo laungum tíma eptir dóminn genginn, verdi antekin, eda nockud uppá þau reflekteret, þar eptir Actis og probatis, en ecki probandis, egi ad dæmast Sýslumadur A. Jónsson uppástendur Gudmundar vegna ad Løgmannsins dómur verdi stadfestur. Løgmadur S. Sølvason framlagdi innlegg af dags dató, sínum dómi til styrkíngar og forsvars, lesid og markad lit. E. Fram-

qvádust málspartarnir ecki hafa ad framfæra undir afsegjandi dóm. Gudmundur Bjarnason af Rettinum adspurdur: hvørt hann hefdi ecki fyrir þjófnad verid hýddur og markadur í Gullbríngu-sýslu ádur enn þetta mál kom í Aktión? hvørju hann fyrst neitadi, en eptir á vidgeck, þegar honum var sýnd Afskrift af Landfógeta Vúlfs um hann gengnum þjófs-dómi af 20ta Maí 1722. Hjer uppá fiell svo látandi Yfirrettar dómur:

Jafnvel þó Gudmundur Bjarnason, hvørjum árid 1722 þann 20ta Maji ad Kópavogi, fyrir þjófnad, hefir dæmt verid húdlát og brennumark, og þar ad auki þá verid misgrunadur um annann undanfarinn, hafi gêfid mikla grunsemd til samvitundar þess þjófnadar, er sakamennin Bjarni Bjarnason, Jón Magnússon og Oddur Gudmundsson hafa medkênnt sig um veturinn 1750 framid hafa, þar þjófurinn Gudmundur hêldt þá sem lausgángara á sínu heimili í sínu braudi, og fêck þeim bát í vald til ad fiska med, á hvørjum þeir og flackad hafa í kríngumliggjandi pláts, hvar þeir þjófnadina fremdu, en á heimili Gudmundar vóru engvir menn adrir enn hann, búsþýra hans og þessir þjófar, svo ólíklegt virdist hann hafi ecki haft fullkomna njósn um þeirra framferdi, og þjófnad svo optlega framinn, og því kunnad, ef viljad hefdi, uppljósta, þá eru þó ecki fullkomnar laga sannanir um hans samvitund med þeim, fyrir Hêrads-

ads-rétti Sýslumanns E. Olafssonar ad Túngu í Skutulsfirdi, þann 1ta Jún. 1750, framkomnar, og kunni þó Gudmundi, hvorki þá edur fyrir ædri réttum, sem ádur dæmdum þjóf, frikunar eidur ad eptirlátast; því dæmist rétt:

Dómur Sýslumanns E. Olafssonar, genginn ad Túngu í Skutulsfirdi, þann 1ta Júnii 1750, skal, sem óloglega undirbúinn, vera upphafinn, í því hann áhrærir Gudmundi Bjarnasyni tildæmda refsíngu og þjófsmark, og skal Sýslumadur E. Olafsson fyrir slíkann ofhastarlegann og ílla grunduadann dóm, borga til Hallbjarnareyrar Spitala 20 rdli. krón. En þared Sýslumadur E. Olafsson hefir hér ad auki fullnægt þessum sínum dómi, eptir gjört Appell, skal hann borga fyrir slíka logum gagnstæda adferd, 60 lód sylfurs, og ecki mega fremja nockur dómara verk, fyrr enn þau eru lokin, tveir partar þar af til Landfógetans, en 3ji partur til sakfóknarans. Hér ad auki skal hann apturskila Gudmundi Bjarna-

nasyni hans búslóð, hvørja hann honum fráðæmdi og til sín tók, eiñig borga í málskostnað til saksóknarans 40 rdli. krón. Skulu áðurnefndar bætur borgast að eptirskrifuðum Terminum, nl.: 60 lóð sylfurs innan 6 vikna frá dómsins dató; Hallbjarnareyrar Spítala tildæmdir 20rdlr., í nærstkomandi Fardögum; en máls-kostnaðurinn innan Michaelis messu þ. á. Er Løgþingis dómurinn þess vegna línaður, að þessi Réttur hefir ødlast fullkomna eptirréttíngu um Guðmundar Bjarnasonar undangenginn þjófnað, og þar af fylgjandi æruleysi. Actum ut supra.

M. Gíslason.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | B. Haldórsson. |
| Þ. Magnússon. | B. Sigurðsson. |
| Þ. Jónsson. | D, Schéving. |
| G. Runólfsson. | J Arnason. |
| M. Kétilsson. | Þ. Guðmundsson. |
| Þ. Axelsson. | Oddur Eiriksson. |

## NUM. II.

Sama dag mætti í Yfirréttinum Sýslumaður J. Arnason, sem eptir stickun af dags dató er settur Al-

tør í Kaupmanns Johans Haagens sók, mót Þorgeiri Markúsyni, til ad áfría Vice-løgmanns B. Markússonar genginn Løgþingis dóm, í nefndu máli; stickanin var lesin og merkud lit. A. Þar nærst framlagdi hann Yfirrettar stefnu af 22rum Febr. þ. á., med hvørri Vice-løgmadurinn, sem dómari, og Þorgeir, sem Sagvolder, eru stefndir; stefnan var lesin og merkud lit. B. Vice-løgmadurinn framlagdi innlegg af dags dató, hvarí hann átelur ofnaumann stefnu-frest, frá 18da Júní til 3ja Júlí, og bidur þar um Rettarins úrskurdar, hvørt skyldugur se til sakarinnar ad svara; innleggid lesid og markad lit. C. Hier uppá fiell Yfirrettarins úrskurdur, sem fylgir:

Stefnu-fresturinn er ofnaumur, og Citanten hefir þess vegna tapad sókninni, eptir NL. 1—4—27; en skal borga til Viceløgmannsins fyrir óløglega innstefning í kost og tæringu 10 rdli. króner, innan mánadar frá dató. Actum ut supra.

M. Gíslason.

S. Sølvason. B. Haldorsson.
P. Magnússon. B. Sigurdsson.
P. Jónsson. D. Schéving.
G. Runólfsson. A. Jónsson.
M. Kétilsson. P. Gudmundsson.
P. Arelsson. Oddur Eiríksson.

# Num. III.

Þann 14da Júlí settist Yfirretturinn á ný, mætti þá Sýslumadur B. Nikolásson, og framlagdi Yfirréttar stefnu af 24da Aug 1754, móti Vice-lögmanni B. Markússyni og Lögþingisskrifara S. Sigurdssyni, sem Exekutori, og Klausturhaldara J. Thorlacius, sem Fullmektugum Klausturhaldara Páls Haldórssonar, samt Exekutoris Byrdingar-mönnum, Hávardi Einarssyni og Bjarna Erlendssyni; stefnan lesin og merkud lit. A. Mættu nú eptir stefnunni Vice-lögmadurinn og Lögþingisskrifarinn uppá eginn og byrdingarmanna vegna. Var svo lesinn Lögþingis-akt og Vicelögmannsins dómur af 18da Júlí 1754, sem stadfestir eina Exekútións-Forretning, sem Lögþingisskrifarinn eptir Amtmans skipun gjört hefir í búi Sýslumanns B. Nikolássonar; Akten var markadur lit. B. Innlegg framlagdi Sýslumadur B. Nikolásson af 4da húius, hvar í hann átelur nefndann Lögþingis dóm, og uppástendur hann verdi ónýttur, en Vice-lögmadur álitinn til útláta og skadabóta; lesid og markad lit. C. Annad innlegg framlagdi hann móti Exekútörerne í Hjeradi, hvar í hann átelur þeirra ýmislegar adgjördir, sem ólöglegar; lesid og markad lit. D. Þridja innlegg, er á móti Lögþingisskrifaranum, sem var lesid og markad lit. E. Fjórda innlegg framkom, af sama dató, sem hin fyrri, edur 4da húius, móti Klausturhaldara J.

Thorlacio, lesid og markad lit. F. Ad sídustu uppástendur Sýslumadur B. Nikolásson, ad Vice-lögmannsins dómur verdi ónýtur gjörr, en mótpartar sínir dæmdir til bóta og málskostnadar útsvars. Lögþingisskrifarinn framlagdi innlegg af dags dató, hvarí hann átelur Aktors grófu sakargiftir og ósæmilegu orda-tiltæki, þar med er fylgiskjal, sem er Byrding Exekútórerne á 9 Hundr. í jördunni Sólheimum fyrir 12 Hundr. 114 áln:, dat. 6ta Sept. 1754, hvorttveggja lesid og markad lit. G. Vegna Klausturhaldarans J. Thorlacii, refererar hann sig munnlega til hans innleggs fyrir Lögþingis-rettinn. En vegna Byrdingarmanna framleggur hann innlegg af 23ja Júní nærstl. Þeirra sök til forsvars, sem var lesid og markad lit. H. Munnlega uppástendur Vice-lögmadurinn, ad sinn dómur verdi stadfestur og ser tildæmd gyld skadabót fyrir ránga málsýking. Aktor framlagdi innlegg til andsvars ádur innfærdu Lögþingisskrifarans innleggi, sem var lesid og markad lit. J. Meira qvádust partarnir ecki hafa ad framfæra undir endilegann dóm, er þannig var af Yfirrettinum afsagdur:

Exekutions Forretning Lögþingisskrifarans S. Sigurdssonar, er ecki eptir laga fyrirmælum innréttud, þar hann hefir ecki haft vid hendina þau naudsynlegustu hösud Dokument, sem til skuldaheimtunnar grundvallar og sönnunar áttu vid Exekutions Forretningen til reidu

ad vera, svo uppá þau sömu afskrifast kynni
ad sem þá var útlagt, edur ádur med ödrum
lætti borgad, og greinilega sjást serhverrar
krøfu skuldahæd, ecki heldur hefir Løgþingis-
skrifarinn ályktad um gyldleika þeirra kontra-
reikuínga, er Sýslumadur B. Nikolásson
framfærdi fyrir Exekutions-réttinu, þeirri skuld
er þá var ad honum heimtud til Liqvidation,
af hverjum nockrar þó grundast á óátøldum
Hérads dómi; því dæmist rétt:

Løgþingisskrifarinn skal vera skyldugur ad framleggja fyrir landsins Yfir-rétt nærstkomandi ár, hann heila Akt Sýslumannsins S. Stephánssonar, eptir hvørs slútníngu hann Exekution gjørdi í búi Sýslumanns B. Nikolássonar. Fyrir sama rétti skal og Sýslumadur B. Nikolásson útvega Hérads dóm uppá gyldleika og riktugheit þeirra af honum framløgdu kontra-reikníuga, uppá þad, er hann meinar sér hafi ecki tilkomid ad borga vid Exekutionen, ad svo miklu leiti, sem ecki hafa ádurgengnir dómar þar um ályktad, og hvørsu vídt hann egi eptir þeim ad fríast; hafa þá partarnir hér ad framfæra allar

þeirra

þeirra ástædur, undir endilegann Yfir-réttar dóm. Actum ut supra.

M. Gislason.

| | |
|---|---|
| S. Sølvason. | B. Haldórsson. |
| P. Magnússon. | P. Jónsson. |
| A. Jónsson. | D. Schéving. |
| J. Arnason. | M. Kétilsson. |
| G. Runólfsson. | P. Axelsson. |
| Oddur Eiriksson. | Jón Oddsson. |

## Num. IV.

Sama dag mætti i Yfirrettinum Løgsagnari P. Bjarnason, sem framlagdi Yfirrettar stefnu af 24da Aug. 1754, mót Vice-løgmanni B. Markússyni og Løgrettumanni Stepháni Bjørnssyni, sem var lesin og morkud lit. A. Vice-løgmadurinn mætir í egin persónu, en Sýslumadur P. Axelsson vegna Stepháns, eptir skipun af dags dató, sem var lesin og merkud lit. B. Løgsagnari P. Bjarnason framlagdi því næst Løgþingis dóm, afsagdann þann 13da Júlí f. á í máli áðurnefnds Stepháns og sjálfs Citantens, í hvørs slúttningu, hann er dæmdur fyrir óendilegann dóm í Hjeradi og fleiri abuser til 60 lód sylfurs bóta, med fl. sem Prófessinn sýnir, lesinn og markadur lit. C. Þar eptir framlagdi hann innlegg af dags dató, til forsvars sinum adgjørdum í Hjeradi, fyrir hvørjar hann

i Løg,



í Løgþíngis=réttinum var ákjærdur og múlkteradur, lesid markad lit. D. Enn þá framlagdi hann annad innlegg af sama dató og líku innihaldi, lesid og markad lit. E. Sýslumadur P. Axelsson uppástendur síns Principals vegna kost og tæringa fyrir óløglega máls ýfing. Meira var ecki af Partunum framfært, og því svolátandi Yfirrettar dómur afsagdur:

Jafnvel þó Løgsagnarinn Þ. Bjarnason hafi í þessu svo kallada Steinunnar Máli, fyrr sem sídar óløglega procederad, bædi í dómsins atqvædum og Processins extradering, þá virdist slíkt framar af fávitsku enn illgirni eda ásetníngi, til ad fyrra nockurn sínum rétti, skéd vera; en þar hann er ad slíkum fávíslegum og ógrundudum dómara=verkum svo optlega ár eptir ár fundinn fyrir Løgþíngis=réttinum; svo dæmist rétt:

Løgsagnari Þ. Bjarnason ályktast óhæfilegur, til ad þjóna framar dómara embætti, og er svo frikénndur fyrir þeim 60 lód sylfurs bótum, sem Viceløgmadurinn honum uppádæmdi fyrir nærstlidins árs Løgþíngis=rétti, einúngis borgar hann til Løgréttumanns Stepháns Bjørnssonar þá honum af Vice=løgmanninum tildæmdu 6 rdli. krón. innan

innan nærstkomandi veturnátta, undir adfør og Exekution. Actum ut supra.

M. Gíslason.

| | |
|---|---|
| S. Sølvason. | B. Haldórsson. |
| P. Magnússon. | P. Jónsson. |
| D. Schéving. | A. Jónsson. |
| E. Magnússon. | G. Runólfsson. |
| J. Arnason. | M. Kétilsson. |
| P. Gudmundsson. | Oddur Eiríksson. |

## Num. V.

Þann 15da Júlí settist Yfirretturinn ad nýu, mætti fyrir Rettinum Løgsøgnari P. Bjarnason, og framlagdi Yfirrettar stefnu af 24da Aug 1754, mót Vice-løgmanni B. Markússyni og Løgrettumanni Stepháni Bjørnssyni í rekaþrætu máli, sem var lesin og morkud lit. A. Vice-logmadurinn mætti í egin Persónu, og vegna Stepháns, Sýslumadur P. Axelsson, eptir skipun af 14da húius, sem var lesin og morkud lit. B. Løgþingis Próses og dómur, sem fellir Løgsagnara P. Bjarnason fyrir óendilegann dóm til bóta og málskostnadar, og søkina aptur ad forfríska, var lesinn og markadur lit. C. Hier nærst framlagdi hann innlegg af dags dató mót Vice-løgmanninum og hans Løgþingis dómi, og bidur hann se ónýtur gjørr, en ser tildæmist skadabót, lesid og markad lit. D. Annad, mót

mót Stepháni Bjørnsſyni, var leſid og markad lit. E. Vice-løgmadurinn framfærir: ad þad ſe audſjáanlegt af Hjerads Próſeſsinum, ad þetta ſe fjøru-þrætumál, en ecki um ſjálf rekatren, og ad Løgrettumadurinn Stephán hafi óſkad af Løgſagnarannum þíngs og rettargángs, til ad framfæra ſínar áſtædur uppá tilkall ſitt til ſama reka, en ecki fengid fyrr enn laungu ſídar, og þó hafi Løgſagnarinn dæmt í ſøkinni ad óheyrdum Stepháns áſtædum, og honum forſølludum og fjærverandi, líka ſóni ſjálf dóms ſlútníngin, ad Løgſagnarinn hafi óendilega dæmt í málinu, bidur því ad ſinn dómur verdi ſtadfeſtur, en Løgſagnarinn felldur til bóta og málskoſtnadar. Sýſlumadur P. Axelsſon uppáſtendur hid ſama, hvad dóminn áhrærir, til ſíns Prinſcípals. Meira framfærdu ecki partarnir, var því málid til dóms upptekid, og hann þannig aſſagdur:

Fyrrverandi Løgſagnari P. Bjarnaſon hefir ad Kirkjubæar-klauſtri, þann 11ta Dec. 1753, tekid ſer fyrir aleinn ad dæma óendilegann dóm, um fjørumerk milli Kirkjubæar-klauſturs og Hørgslands Spitala, án þeſs løglega ad ranſaka, hverjum þeirra þær umþrættu fjørur tilheyrdu;

Því ſkal ſá dómur, ſem ógrundadur, upphafinn og maktarlaus vera, en portunum ſtanda frítt fyrir, ſínar løglegar ſannanir og áſtædur ad leida til þeirra

þeirra af þeim prætenderada egindóms og reka-marka, og skal Þ. Bjarnason borga 10 lóð sylfurs til Hörgslands Spítala, og til Lögréttumanns Stephans Björnssonar þann ádur dæmda málskostnad 1 Hundr. á landsvísu, hvortveggja innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adför og Exekution.

Actum ut supra.

M. Gislason.

| | |
|---|---|
| S. Solvason. | B. Haldórsson. |
| Þ. Magnússon. | Þ. Jónsson. |
| A. Jonsson. | E. Magnússon. |
| D. Schéving. | J. Arnason. |
| M. Kétilsson. | Þ. Gudmundsson. |
| G. Runólfsson. | Jón Oddsson. |

## Num. VI.

Sama dag mætti í Yfirréttinum Jón Jónsson, og framlagdi Yfirréttar stefnu, med hvörri Sýslumadur M. Ketilsson stefnist ad forsvara sig fyrir sakargift Citantens, ad hann hafi honum rettargángs og þíngdaga neitad; stefnan lesin og mörkud lit. A. Þar nærst framlagdi hann Vitnateckt Sýslumanns E. Magnussonar, af 14da Júní, hvar med Citanten vill sanna sínar



sínar sakargiftir móti Sýslumanninum; þetta Dokument var lesid og markad lit. B. Enn þá framlagdi hann þíngsvitni Brynjólfs Bjarnasonar ad Stadarfelli, þann 4da Júní, hvar inni undirbúníngur þessa máls finnst vidfestur, lesid og markad lit. C. Innlegg af dags dató framlagdi hann, í hvøriu hann vill demonstrera sannindi sinna sakargipta, og framfærir þar sínar Iretteſættelser, lesid og markad lit. D. Sýslumadur M. Ketilsson framlagdi þíngsvitni, tekid á Stadarhóli þann 23ja Júní, med hvørju hann vill sanna óriktugheit sakargipta síns mótparts, lesid og markad lit. E. Þar nærst framlagdi hann innlegg af 14 húius, hvar í hann demonstrerar, ad hann se saklans í rettarhalds og þíngadaga neitun, sem Jón hann skuldi fyrir, og krefst bóta fyrir grófar Beskyldninger, og Próſeſs kostnad, lesid og markad lit. F. Meira framfærdu ecki Partarnir, og var því svolátandi Yfirrettar dómur afsagdur:

Jón Jónsson hefir ecki gétad sannad þær sakargiptir, sem hann hefir Sýslumanni M. Kétilssyni til þessa Réttar fyrir stefnt, en Sýslumadurinn hefir ánægjanlegar røksemdir til þess fært, ad hann sé ecki skuld í uppihaldi máls þess, af hvörju þrætan rís þeirra á millum til þessa Réttar; því dæmist rétt:

**Jóns Jónssonar sakargiptir skulu ecki koma Sýslumanni M. Kétilssyni til**

til skada edur fjár-útláta, heldur Jón Jónsson borga honum, fyrir ónaudsynlega ýfíng og orsakadann umkostnad, 12 rdli. kúrant, sem luktir skulu vera innan nærstkomandi Michaelis messu, undir adför og Exekution.

Actum ut supra.

M. Gíslason.

S. Sølvason. B. Markússon.
B. Haldórsson. P. Magnússon.
P. Jónsson. A. Jónsson.
O. Schéving. J. Arnason.
G. Runólfsson. P. Gudmundsson.
O. Stephánsson. P. Axelsson.



Ad þessi Yfirrettar Acta seu rett útskrifud af Yfirrettar Þíngbókinni, fyrir þessi framanskrifudu 5 ár, og henni samhljóda, vitnar

B. Stephensen,
Júst. Sekreteri.



